# Forſetaheimt.

Orkt af

*Arnóri Jónsſyni,*

Prófaſti í hálfri Iſafjardarſýſlu og Preſti ad Vatnsfyrdi.

Med nockrum vidbættum ſkíríngargreinum.



Kaupmannahöfn.
Prentad á koſtnad ſkáldſins hjá *H. F. Popp.*

1821.

# Forſetaheimt.

I.

Hvör er ſión ſjóna,
er ſjáum gnæfa
hátt á hæd hæda?
Herm þú, Muni! —
glóa gull-ſalir,
glampa hjálmar,
blika Blind-ſtjörnur
ok breidir ſkildir.

2.

Alfödur ſýnir
áttfættr jór,
men briſínga
biarthærda Freyu,

þrúd-mődgan Þór
þúngr hamarr,
Tý hug-háſann
handarleyſi.

3.

Ridlaz Áſar
ok Áſyniur,
god ginnheilög,
ganförum í;
þykkir Breidablik
breſta myndi
vid gard-reid goda
gamma-rými.

4.

Áſár kvádu:
Heill veri þú, Baldur!
hardt var med Áſum,
meyar mein-ſævi
at munum gréto.

Heill veri þú, Baldur!
Helgrindor um
endr um kominn
í ása bygdir!

5.

Hlæa hugir,
heldr fyllaz
forspár, Fiölnir,
þærs fyrrum gól
í hlust andvana,
heyrdi manngi,
utan Baggesens
andagipta.

6.

Baldur kvad:
Heill veri kominn,
at heilli bestu,
Rögna-hroptr,
ok ríkir tívar;

fornar'ro tóptir
feikn-ſtöfum án
Baldri bygdar,
at bodi ſcapa.

7.

Hvarf ec augum
Áſa-garda,
Álfa ok Jötna,
víſra Vana
ſjónum of fórec,
ef ſjá mættac,
fiölſettar bygdir,
Forſeta mög.

8.

Miöc blanda ſorgir
munad-líſi;
aud er albygd
at audum Glitni;
rökſtólar þykkia
(rögnum ſettir)

audir födur
án arfa ſjenum.

9.

Odinn kvad:
Harmar hugteiti
í hryggra fiót,
vex hryggum harmr
í hópi gladra;
munca miöd drekka
ne mærar veigar,
fyrr en Baldri
böl um hverfi.

10.

Södul á Sleipni
Svidrir um lagdi,
bar Baldur gandi,
brann jörd loga,
Valaſkjálf jálmar;
viku bádir

hátt á Hlidſkjálf,
heima ſáu.

II.

Þá mælti Odinn
alda-gautr:
Fekkat Forſeti,
at fallinn Baldur,
ſaka-ſættir
ſakar um dæmdar,
þærs unnvörpum
ýſdar létu.

12.

Brá þá háttum
ok bygd it ſama
Baldri borinn,
bad sér fylgdu
Vör ok Síkn
ſidlátadar,
gat mögu marga
mentum prýdda.

13.

Lög þá lærdi,
lét áſkilit
lög þeir láti
lydi ſætta,
hrjái rángs-leitni,
hlynni dádum;
ſáumca ſídan,
en ſöknud höldum.

14.

Tína né máec,
né telja gégnir
ítra kynſtafa
allan þorra;
öll Nordrlönd
um allda radir
augum Baldurs
ſé opin fyrir.

15.

Baldur kvad:
Fiöld ſé ec frægra
fólkvíſínga;

leyniz lævísi
(Loki veldr)
rökstólum á,
yptir brandi
eitri herdum;
illu heilli.

16.

Meingiörn úkynjan
mundáng sýnir,
lætz sakar vega,
vegr mútu —
liggja lög hnípin;
hlakkar frekja;
veiti vil-björg
sá veita kann!

17.

Fjöld sé ec mærra
mundángs-valda,
miöc ljómar Freys hjörr
í mundum stilltum,

ſkirr vid ſkada;
ſkiálfa leſtir,
(höggſtadir hæfdir)
hlæa koſtir.

18.

Sje ec — mér ſýniz —
nei, ſiónhverfíng
einber myndi —
Alfödur ſitja,
fródan fornſtöfum,
frægan ſpeki;
hams er eitt auga,
en ótal hyggju.

19.

Odinn kvad:
Þar er Þorleifr
Þjódſpekíngr;
nemr Ulfljótr
at orum vini,

lögſpeki at gædi
lendu nýa;
þar bætir Magnús,
er breſtr myndi.

20.

Fræg er ſu fold
at frædi ſagna,
frægd vor þar lifir
ok fornir ſtafir,
þar lifir ætt
or ok túnga,
þótt átrúnadi
alldir brygdu.

21.

Island hétu,
en ei er frörinn
þánka kraptr,
ne þoku myrkr;
man ec þat ſanna,
ſjáum bádir

ſjón ſvasliga
ſinna Baldri.

22.

Beit þú bádum
biörtum ſiónum,
una man auga
indælli ſjón.
Baldur kvad:
Sje ec meira,
enn ſja trýda'g,
ſje ec Forſeta,
ſie ec meira.

23.

Sitr á Glitni,
gódſtad frægſtum,
byggja þar níu
Njardar dætur,
meyar Mengladar
mærum þjóna,

þær nefnaz Menta —
ok þocka-gydjur.

24.

Sitr á Glitni,
grund-ſkrautudr,
veſja fiöl-ſkreyttuſt
frægda merki.
Sæll em ec ſonar
ok ſjónar bædi —
miöc drack ſá mærum
af Mímis brunni.

25.

Há er þeim hyggja
ok hjarta-prýdi,
Réttvíſi ok Blída
byggja ſinni,
frömudr menta,
framrádr liſta,
hald hjálpvönum,
hvatki traudr.

26.

Gnúpleit glapir,
glyrnur ro dimmar,
ólmr rif-vargr
eigin hjarta,
hrollir mér hugr,
hefir margan
Öfund unnit,
á því kéndum.

27.

Lind ber blikhvíta,
hifin-ſenda
burr, ſem höggtennur
heljar nödru
lamit hefir,
ok lengi mun —
hræđſtu ok hættu,
Hvergemlis Norn!

28.

Mind ſtendr ferlig,
margbreytt limum,

ſýnaz þó fáir
ſaman eiga,
vottar augnarád
yfirburdi;
veit áſs vætur
hvat vėra muni.

29.

Odinn kvad:
Er þeſſi Lög-gjöf,
en örlög valda
midr ſömdu
mindar lagi;
ſneidaz þarf limum
ok limum aukaz,
ádr gydja
algér verdi.

30.

Koſti ok breſti
kann fullgérla

Baldurs burr frægrar,
því brýn er hyggja;
þá mantu, Baldurr!
beſtu launa,
þekkíng torſókta
þarfa meſtu.

31.

Rádomc þér, Baldurr!
en þú rád nemir,
nióta mantu,
ef þú nemr:
Bur ſkaltu bjóda
bót at vinna
Lög-giöf, at gydju
gædir nafni.

32.

Sú man ſtall-heilög
ſtydja lýdi —
þú mant budlúnga
beſtr þykkja,

Fridríkr nefnaz,
en Forſeti
Magnús Stephensen
mærr at liſtum,
Lærifadir
lögſpekinnar.

33.

Baldur kvad:
Alfödurs ordum
ſkal arfi hlýda,
bidjum ſcöp beini
at beſtu rádi!
Odinn kvad:
Setiumz at ſumbli,
ſiót val-tíva
(Fróns Forſeta)
fagni Baldri.



## Utleggíngar-tilraun

yfir þad vandſkildaſta í Forſetaheimt.

Efnid: Baldur Odinsſon og Forſeti, ſonur Baldurs, voru dómarar med Aſum (v II og Edda Dæmiſ. XX & XXVI), en eptir ad Baldur var fallinn og farinn til Heliar, þá jukuſt málaferli ſvo miög, ad Forſeti lagdi nidr lögſögu og fór til nordrlanda og kéndi þar út af ſér lögſpeki (v. 11-14). Eptir Ragnaröckur kémur Baldur frá Heliar (Edda Dæmiſ. XLIX) og fagna æſir honum. Baldur ſaknar Forſeta ſonar ſíns, fara þeir Odinn þá uppí Hlidſkiálf og ſýnir Odinn honum þadan þá lögſpekínga á nordrlöndum, ſem komnir vóru frá Forſeta (v. 9-14. 15-21). Baldur kémur þá augum á Forſeta á Islandi, hvar hann ſitur á Glitni í vyrdíngu, med 9 niardardætrum (v. 23-25), vopnadann móti öfund. Baldur ſér líka Löggiöf Islands í ſkrímſlis líki, en þó med tignarlegu yfirbragdi. Odinn bidur Baldur ad láta Forſeta géra ad ſköpulagi hennar, ſvo hún verdi ad gydiu,

sem allir tilbidji. Baldur lofar því. Odinn segir hvör Baldur og Forseti sé (32) og bidur æsi ad fagna Baldri, en Islendínga ad fagna Forseta (v. 33).

I.

Skáldid þykist siá, hvörsu æsir flyckiast til ad fagna Baldri, sem kominn er frá Heliar eptir Ragnaröckur. Sión sióna, hæd hæda; sama ord, sett tvisvar, géfur til kynna eitthvad mikid; mörg dæmi finnast uppá þad í Eddu. Muni, huguriun. Blindstiörnur, af Blindr, ódinsheiti, hans stiarna (eda eldr) sverd. gull-salir, hiálmar; Blindstiörnur, skildir, nfl. Gudanna sem í þyrpíngu fara til Baldurs í Breidablik.

2.

Skáldid þykist þeckia þá helstu af ásum af búnadi þeirra, Odinn af Sleipni, Freyu af meninu, þór af hamrinum, Týr var einhendtur. Alfadir, Odinn. áttfættr jór, Sleipnir, hestr Odins (v. Eddu. Dæmis. 35). Brísíngamen (af brísíngr, eldr) var kostgripr Freyu. þrúdg-módgr, hard-hugadr.

3.

Gudin flyckiast til Breidabliks, til ad fagna Baldri. ridlast, fara í flockum. ginnheilagr, kémr opt fyrir í Eddu, ginn er líkl. partic. intens. Ganför, loptför. Breid-

ablik, ſalr á himni, þar bió Baldur. þyckir — gammarými: þyckir Breidablik myndi breſta gamma-rými vid gardreid góda, ɔ: þad þótti ſem ecki mundi verda nóg húsrúm á Breidabliki, þegar öll gudin ridu þar í gard. gamma-rými, húsrúm.

4.

Æſir kvedia Baldur, minnaſt á raunir ſínar og hvörſu ad Baldur vard þeim harmdaudi. hart-áſum ɔ: í Ragnaröckri og bardaga áſanna vid muſpellsſyni, ſem brendu iördina og ásgard. Edda ſegir ad eptir Ragnaröckur áttu æſir ad minnaſt á raunir ſínar*). Meyar; eg held hann meini à ſyniur. meinſævi acc. ſ. af meinſævir, ſá ſem ſefar mein manna ɔ: Baldur; ſiá lýſíngu hans í Eddu. at munum, hiartanlega. helgrindur, ſkídgardur um höll Heliar, Hermódr lætr Sleipni ſtöckva med ſig yfir helgrind. endr, aptr. Edda ſegir, ad Baldur muni koma frá Heljar eptir Ragnaröckur. ná vildu gudin Baldri fyrr þadan, en máttu ecki vegna læviſi Loka, ctr. v. 26.

5.

Æſir glediaz vid þad, ad nú er framkomid þad ſem Odinn hvíſladi í eyra Baldri,

---

*) Hyggia mín er þat at fornaldarmenn hafi trúad því, at öll Godinn mundu endurlifna eptir Ragnarökkur, enn oflángt yrdi hér ad telia áſtædur mínar F. M.

ådr enn hann var lagdr á bálid. þad er ad ſkilia, ad Skáldid meini þad verid hafa, ad Baldur ſkyldi koma fra Heliar eptir Ragnaröckur*). Baggeſen ſegir þetta, í víſu nokkurri til Konúngs vors, hvörium hann jafnar ſaman vid Baldur.

6.

Baldur heilſar Odni. heill, n. g. omen; at heilli beſtu, optimo omine, eda heldr, quod felix fauſtumqve ſit. rögna hroptr, eginl. gud gudanna, þ. e. Odinn, þvi rögn eru gud og hroptar líka tívar, divi, gudin. 'ro, per aphær. f. ero. topt, I, grundvöllr húſs, t. d. i Hkr. at marka toptir, um hús ſem byggiaſt á. 2. hús, búſtadr, h. l. — feiknſtafir, af feikn og ſtafr; ſtafr er hér þydíngarlauſt, eins og kveinſtafr-kvein, líknſtafr-líkn, lofſtafr-lof (í Merlínusſpá og. vídar). feikn, óſköp, óhamingia. h. l. án, ſine, med dat. antiqv. Edda ſegir í Grímnismálum; Dæmiſ. xx) "Breidablik heita — þar er Baldur hefir —

*) Eg meina téd efni hafi verid nokkur hluti þeſſa leyndarmáls, enn ad allt hafi þad vidvikid endurlífgun allra godanna. Hérum fer eg fleirum ordum í mínum dönſku og latínſku útleggíngum yfir Völuſpá og fleiri qvædi Sæmundar-Eddu.

*F. M.*

sér of görva sali — á því landi — er ec liggia veit — fæzta feiknstafi," og leggr það svo út í prosa: "þar má ecki vera úhreint." Scöp, það sem manni er skapad, forlög.

7.

Baldur segist hafa skygnst eptir Forseta syni sínum medal ása, álfa, iötna og vana, enn saknar hans. hverfa er ad umkríngia, t. d. í Hkr. bær horfinn mönnum, i. e. umkríngdr. hverfa augum, perlustrare oculis. álfar, iötnar og vanir voru þiódir, sem æsir opt áttu vid, því leitar hann þar. Eg tek þetta svo upp: siónum of fórec fiölsettar bygdir ása, vana, álfa og iötna, ef siá mættac Forseta, mög (ɔ: minn) mögr er sonur.

8.

Baldur harmar það, ad hann ecki finnur Forseta, fyri því ad honum þykir þá sem ósetnir séu dómstólarnir, ef ad hann er ecki þar. Munadlífi, *vita beata*, meiníng: mér þykir sæla vor ásanna vera miög sorgblandin, ef vér skulum missa Forseta. aud — Glitni, meiníng: mér þykir sem allr heimr sé óbygdr, ef Forseti býr ecki á Glitni (þvíad med lögum skal land byggia). um Glitni segir Edda: "Forseti heitir son Baldurs — hann á þann sal á himni, er Glitnir heitir, en allir er til hans koma med sakar

vandrædi, þá fara allir sáttir í brott. Sá er dómstadr baztr med gudum ok mönnum." Rökstólar — sjenum, þetta tek eg svo upp: födur, sienum án arfa þykia rökstólar, settir rögnum, audir, þ. e. mér Baldri þykia dómstólarnir audir, þó hin gudin sitji þar, ef eg sie ecki son minn. Rökstólar, dómstólar, opt í völuspá. rögn, gudir.

9.

Odni líkar þad illa, ad Baldur lætur þetta á sér festa, og heitir því ad hann skuli eckért géra sér til gamans, fyrr en hann fær bætta hugarsorg Baldurs. hugteiti gledi. sjót, félag, sveit. miöd — né mærar veigar, því ad Odinn át eckert í Valhöll, enn nærdiz af víni einu.

10.

þeir Odinn og Baldur rída nú til Hlidskiálfar og siá þadan yfir alla heima. Svidrir, Odinn. bar Baldur gandi, gandr er úlfr*). Valaskiálf var Salur einn á himni. Jördin brennur og Valaskiálf jálmar (ɔ: tekr undir) þegar þeir rída. Skáldid gat giarnan látid Baldur rída vargi,

*) Einnig ormur edr dreki; máské sérhvört þad finngálkn (edur trylltur reidskióti) sem brúkad var til gandreida edur loptferda.

F. M.

því Völuspá lýſir lífinu eptir ragnaröckur eins og gullaldri, þá öll óargadýr urdu ſpök; hún ſegir: munu óſánir akrar vaxa. böls man alls batna.

II.

Nù ſegir Odinn Baldri frá, hvad um Forſeta vard eptir fall Baldurs: þegar Baldur var fallinn, ſegir hann, féck Forſeti ecki komiſt yfir ad útkliá öll málaferli, ſem þá fóru ódum í vöxt. Féckat-féck ecki; at er enclit. negativa. Forſeti kallaſt hér ſakaſættir; ſiá v. 8. at fallinn Baldur, archaiſmus ɔ: at föllnum B. þærs fr. þær er ýſdar létu (ɔ: menn), periphraſt. fyrir. ſem ýfduſt. unnvörpum af unnvarp, hrönn, þad ſem ſiórinn kaſtar á land. Hkr. brúkar unnvörpum um mikinn fiölda, t. d. at falla unnvörpum ɔ: hrönnum.

12.

Af þesſari orſök (ſegir Odinn) lagdi Forſeti nídur lögſögn og fór burt frá Ásgardi. brá háttum ɔ: hætti ad dæma mál manna- og bygd ɔ: fór frá asgardi. Baldri borinn, i. e. Baldurs ſon, Forſeti. Vör ok Síkn*), vóru Áſyniur, ſem vördu mál á þíngum. ſidlátadr-ſidprúdur.

---

*) Syn mun hún nefnaz í fleſtum réttum Eddu. bókum.

F. M.

13.

Nú tók Forſeti (ſegir Odinn) ad kénna lög ſonum ſínum, ſvo ad þeir í hans ſtad gengi milli manna, hegndu laſta, enn verndudu dygdir; og eptir þetta ſá eg ecki Forſeta ſiálfan (ſegir hann). Sáumca fr. ſá ek ecki; eins og "eg þykiumſt."

14.

En mikid og margt afkvæmi átti Forſeti um öll nordurlönd; Odinn bidur nú Baldur ad líta þángad. Tína-telja upp. ítr, propr. hreinn, biartr, metaph. nafnfrægr. kynſtafr, ættkvíſl, afkvæmi, kyn. þorri, *pars plurima.*

15.

Beldur ſegiſt ſjá marga fræga lögvitrínga á nordrlöndum; en þó ſýniſt honum lagaprettir og rángsleitni leyna ſér á dómſtólunum. Fiöld, f. g. mergd. fólkvíſíngr, *sapiens populi*, en í fornöld var lagavitſka næſtum því ein víſindi*); eg tek þá þetta þeſsvegna og eptir ſamhenginu um lögvitrínga. lævíſi, af læ leynilig ſvik, undir ſerli og vís, er klókindi, prettir, vers-

---

*) Gudfrædi var þá lögſpekinni mjög nátengd; og heita dyrkarar hennar í Eddu gódmálugir, eins og þeir nefnaſt nú um ſtundir Theologi.

*F. M.*

utia. Loki var höfundur allra véla med áſum og er því heldr náttúrlegt ad Baldur eigni honum krókalögin, ſem hann ſiálfr hafdi kénnt á ſvikum hans. rökſtólar v. 8. ypta (af upp) hafa á lopti. íllu heilli, malo omine edr ödrum til ógæfu. brandr herdr (antiqv. fr. herdtr) í eitri, ſymbolum uppá ſkada.

16.

Baldri rennr ſvo til rifia ſú óréttvíſi, ſem hann ſér, ad hann hrópar upp og bidr hvörn ad færa í betra lag ſem gétí. úkynian, monſtrum ɔ: lævíſin. meingiörn illgiörn, giörn á ad géra ödrum mein, ſkadefro. mundáng tek eg hér fyrir metaſkál, pars pro toto, og ſem Symbolum τȣ ſuum cuique. Þesſi ófreſkia hefir í hendi ſér metaſkál, eins og hún vegi rétt hvörjum einum og meti rétt mál manna, enn hún gérir það ránglega og í gróda ſkini. Sakar, gamall nom. & acc. pl. af ſök. hnípin, nidrlútr, dapr. frekia, óſtiórnlegr (ɔ: lagalaus) yfirgángr. Hlackar, inſultat. vilbiörg, auxilium exoptatisſimum.

17.

Enn þó ſér Baldur marga lögſpaka menn, ſem hafa réttlætiſins ſverd á lopti, til þesſ ad drepa nidr löſtum, en veria ſakleyſid. Mundángs-valda, af nom. mundángsvaldr, ſá ſem heldr á metaſkálinni, ſym-

holo iustitiæ. mærr hreinn, klár, metaph. frægr, *illustris*. Freys hiörr er hér settr fyrir sverd Réttlætisins, því þad sverd var gott en vandi nockur fylgdi ad bruka þad. Freyr segir um þad í Skírnisfór: "fæ ek þér sverd þat (þad var sverd siálfs Freys) — er siálft mun vegaz — ef sá er horskr er hefr." Skirr, sá sem varast. kostir mannkostir, opp. lestir. Lestirnir hrædast þetta sverd, en dygdin gledst vid þad. höggstadir hæfdir ɔ: sverdid vofir yfir þeim lastafullu.

18.

Baldur sier einn lögvitring á nordrlöndum, sem hann hyggr vera Odinn siálfan. fornstafir og fornir stafir eru forn vísindi, eginl. i theo- og cosmogonia veterum, siá Vafþrudnismál og a Alvissmal. hams er eitt auga, Odinn var eineygdr. v. 25. Sál hans hefir ótal augu, en líkaminn ecki nema eitt; audskilinn tropus.

19.

Odinn segir Baldri, ad þetta sè þorleifr spaki, sem er ad kénna Ulflióti lög, er fara áttu til Islands. þessi þorleifr mun vera þorleifr spaki, sem lifdi á dögum Hálfdánar Svarta og Haralds Hárfagra og var med þeim í lagasetníngu, því ad Ulfliótr fór med lögin til Islands ádur en Haraldr Hárfagri do. annar þor-

leifr fpaki var á dögum Olafs Tryggvafonar, en mun varla geta verid fá hérnefndi; hann vard ad fönnu blindr á ödru auga, enn á eigi hér vid, því Hallfredr vandrædafkáld blindadi hann fkömmu fyrir árid 1000. þiódfpekíngr - fólkvífingr v. 15. orum (fr. vorum) vini ɔ: þorleifi þesfum. at gædi lendu nýa lögfpeki, ɔ: Island, lenda: land. Magnús ɔ: kgr Hákonarfon gamla, fem feck af því nafnid lagabætir.

20 - 22.

Odinn fegir Baldri frá frægd Islands; þar eru fögurnar og fornfrædin, þar eru nidiar áfanna og áfamálid (20). þar eru gáfumenn og fpakir menn (21). frörinnfredinn, ecki frörinn, ɔ: ecki kraptlaus eda daufr. myrkr tek eg hér fyrir adject. og þoku fr. dat. þánkakraptrinn er ecki myrkr (af) þoku; þó ad kaldt og þokufamt fé í Islandi, þá er famt þánkakraptrinn fiörugr og fkynugr. fvasligr, blídr, fagr, af fvas, fvavis. finna held og hér fé verbum, at vera eptir gédi eins. 22. ad beita augum, er ad horfa.

23 - 25.

Baldur fér nú Forfeta á Islandi, lýfir mentum hans, frægdum, vitfku og mannkoftum. Glitnir, falr Forfeta; hvar Glitnir er á Islandi cfr. 32. v. hér meinaft nefnlega Videy. þad er audféd ad Skáldid

vill láta þessar 9 dætur Niardar og Mengladar vera musas. I Fiölsvinsmálum gétr um 9 meyar, sem sýngia fyrir kniám Mengladar, þær heita svo: Hlíf, Hlífþursa, Þiódvarta, Biört, Blíd, Blídur, Fríd, Eir og Aurboda; en hvörki veit eg hvört þær eru dætur hennar, eda hennar og Niardar, og ecki veit eg hvör Menglöd hefir verid; hún sýnist ad vera persona ficta í Fiölsvinnsmálum. grundskrautudr, sá sem prýdir iördina, sem landinu er sómi og virdíng ad. Mímisbrunr, brunnr sem Mímir átti; í honum var spekt og mannvit; Mímir var fullr af vísindum (segir Edda) af því hann drack af brunninum; og svo er hvör sem af honum dreckr. Odinn féck einn teyg af honum og setti auga sitt ad vedi; mærr, hreinn. frömudr, sá sem eflir. framrádr, sá sem hvetr til. hald, hlíf og traust, athvarf. hiálpvanr. hiálparaus. hvatki, af hvat, og encl. negat. gi, *non*, *nulla in re.*

26-27.

Um þad hvörsu ad Forseti er vopnadr móti öfund, og hefir öblugt stadid á móti henni og mun svo framvegis. 26. Descriptio invidi: gnúpleitr, hnackakértr, status invidi, sem lítr í kríngum sig til ad siá adra. glápa um heimskulegt aúgnarád og starsýni. 'ro fyrir, eru. rifvargr, har-

pyia. á því kéndum, fegir Baldur, því af öfund féck Loki Höd til ad fkióta hann med miftilteini, fem undan vard færum áfanna, þegar þeir tóku eid af öllum hlutum til grida Baldri; Loki hindradi og ad Baldur kæmi frá Heljar, þegar gudin vildu kaupa hann þadan. 27. Lind, tré, fkiöldr, allsflags veria. blikhvíta, kannfké fem fymbolum pacis. hifin-fenda, fenda frá himni. burr, fonr, el. Forfeti. heliar nödru-hvergémlis norn; þeir gömlu hafa gért fér í lund, ad öfundin væri komin fra Níflheimi, þar var brunnrinn Hvergemlir undir einni rót yggdrafils; þar var ormrinn nídhöggr, fem nagadi nedan trésræturnar og öfundarord fór milli hans og arnarins er uppi fat í trénu. Norn Hvergemlis er hér því öfundin.

## 28.

Baldur fér nú einhvörja óſkapa fképnu med mörgum breytilegum limum, fém ecki eiga faman, þó fýnift honum á yfirbragdi hennar, fem hún muni vera tíginnar ættar; hann veit ecki hvad þetta er. áfs, el. Baldur fiálfr. vætur er eiginl. hlutr, eda hvad fem er, af ad vera; brúkaft því oft fr. aliqvid, (nockut) en ftundum negat. fr. ecki eda eckért (fama fem vætt-gi), þadan er vettugi, qs. vettur-gi.

29-31-2.

Odinn segir Baldri, ad þessi skêpna sé löggiöf Islands, sem er svo ómindarleg og ósamanhángandi; hún á ad vera líka sem gydia, er tilbidiast á af öllum, en gétr ei ordid þad, nema hùn fái nýtt sköpulag. Odinn segir ad Forseti viti glöggt hvad ábótavant sé, og hann muni géta komid henni í samt lag, og muni Baldur launa honum gódu fyrír; hann rædur nú Baldri ad fá son sinn til ad laga þessa mind, svo hún géti ordid sæmileg gydia, sem tilbedin verdi í landinu. stallheilagr (32) af stallr, altari gudanna, og heilagr. Hér fylgir nú úrlausn Nafnanna.

33.

Baldr segist géra muni þad sem Odinn rædur til, og óskar ad þetta fyrirtæki megi luckast. scöp, forlög. beini, láti þetta heillarád fá framgáng, Odin bidur æsi ad fagna Baldri en Islendínga ad fagna Forseta. Sumbl er samdryckja. Valtívar, gudirnir, siót samkoma. Fróns Forseta i. e. siót fróns fagni Forseta. Siót Fróns, Islendíngar.

*S. Egilsson.*

